# Rimur

af

# Hákoni Hárekssyni

## Norska.

Kvednar af

Jóhannesi Jónssyni,

Bóndasyni á Sydra Skørdugili.



Videyar Klaustri, 1836.

Prentadar á Forlag *Studiosi* Þ. Jónssonar,

af Bókþryckjara Helga Helgasyni.



# Fyrsta Ríma.

(Skothendt).

1. Hrannar mána hrund mig bad, hródur níjann vanda, síst þó lánad sé mér þad, sónar beltid landa.

2. Fyrir þeim og falda flód, fýsti margann rita; hvad skal þeim ad yrkja ód, Eddu sem ei vita.

3. Fram ad leida ljóda vers, lýd svo þóknast meigi, stundum eyda þarf til þess, þad á nótt og degi.

4. Ita sid þeim ad jeg hló, ei þau lidsemd kalla, yndis vidhald eru þó, ef í snidum falla.

5. Einn er hádi hafdur ad, hann sem rit ei grundar, ødrum lád og eins er þad, opt ef bækur stundar.

6. Stórríkum er lád mér lýst, lángt audsafn ad hreysi, fátækum er forakt víst, fyrir gródaleysi.

7. Gyrnist meingid flestallt sjed, furdar mig þad valla, audur fenginn æru med, ágjætt má kalla.

8. Ædri hér enn Orma tún, upplýsingin sanna, er ljósberi ágjæt hún, allra manndygdanna.

9. Mansaungs rínga málid fer, mæddur andi hyrjar, Skothendíngu heyrid hér: hlustid! efnid byrjar!

10. Í Norveg einn mætur mann, mettur aura safni, austarlega héldt bú hann, Hárekur ad nafni.

11. Um þær mundir orku med, ørfa njóta feldi; Sveinn Ulfs kundur ødlíng réd, øllu Dana veldi.

12. Stillir frída stjórnsamann, studdi seimur brendur, Sveinn Astrídar arfi hann, ødru nafni kjendur.

13. Ljóma sýkja lundur sá, løg réd kristin bjóda, hóf ad ríkja' ad føllnum frá, fylkir Magnús Góda.

14. Til Háreks sagan halda má, hladin jøtna svari, varla bragur byrtir frá, bónda stór=ríkari.

15. Beuja kólfa baldur sá, búgard einn héldt fridan, adra 12 og átti þá, artuga med smídan.

16. Margar átti trønur trés, til med segl og reida, þessar máttu merar hlés, melinn høfríngs skeida.

17. Kaupferð þegar héldt um hil, hnísu' í gróða standi, í Austurveg og Englands til, eins að Þýðskalandi.

18. Hrugnis versa bundinn þann, þraut ei búsæld kæna, eptir þessu átti hann, aðra gripi væna.

19. Hafði prófað höfðings géð, hyrðir kólgu bríma, þrjú stórhóf því halda réð, hann um vetrar tíma.

20. Kjætti njóla síldar sviðs, sunnu gleðskaps yðja, veitsla Jóla, vetrar miðs, var á Páskum þriðja.

21. Flerstar kjósa vildi var, veitt í gjæfu sessi, vyrða hrós og vinsæld bar, veitir aura þessi.

22. Hlaðinn speki hárs á kvon, höfðíngsmanna jafni, einn Hárekur átti son, er Hákon að nafni.

23. Hárek kéndum auðnu á, aldurðómi sínum, loks ørendur féll hann frá, fögrum auði sínum.

24. Leyfði friðum arfa erfð, eptir þá í heimi, vegleg síðan greftran gérð, grund við-skildum beimi.

25. Greinir frá svo géck til það, gladdi marganu snauðann, settist Hákon eignum að, eptir föður dauðann.

26. Dróttin snjøll hjá dresvarp stáls, dýra veitslu þádi, giptist þøllu þjassa máls, þó með frænda rádi.

27. Forstand mjøg og frídleik bar, føgur brúna ljósin; ágjætleg að øllu var, edalsteina rósin.

28. Bjuggu' í nádum nokkra stund, nam ei heidur skérda, sjer þó brádum bauga grund, búsælt ei má verda.

29. Dygða tømum var audveldt, veitslur búa fjádur, rausn vid sømu Hákon héldt, hann sem vandist ádur.

30. Drykkjur bjó um málin mørg, mjøg til leika fallinn, minni dró að búi bjørg, en burtsofnadi kallinn.

31. Einatt brá í æsku géð, úngum týr sæfuna, þarun smáa hann þar með, héldt um fjárgeymsluna.

32. Mein vard huga mjøg af þar, mørku bauga taldri, forstøndug því framar var, fullordin ad aldri.

33. Bóndans kvinna gáfum glæst, greinir sinn vid Herra, audur þinn og arfur næst, er farinn ad þverra.

34. Hyrdíng vøndum vantar bú, von ei sjálft sig geymi, bádum høndum býtir þú, brendum ockar seimi.

**35.** Hugsum tóra heldur skár, hagsemd beggja sidur, veitslur stórar þessar þrjár, þorf er leggja nidur.

**36.** Svar gaf enn í hægdum hann, hlýddi prúdur svanninn: ecki nenna eg því kann, af ad fedrast þanninn.

**37.** Týr baugs ádi góma geir, gjørdi báđum skilja, þú munt ráda meiga meir, mælti þráda lilja.

**38.** Vina fjádum var óleidt, verkin góð ad næra, jafnt sem ádur gjørdi greidt, gjafir þjódum tæra.

**39.** Þegar lidid eitt var ár, eptir samtal hjóna, mælti vidur mann sína klár, mørkin elda lóna.

**40.** Þér kann segja, **madur minn**, mælti snót án reidi, øll þau fley er fadir þinn, féck þér leyst er deydi.

**41.** Gróda húmar føgrum frí, finst mér hrygda strengur, ecki rúm í einu því, áttu, kjæri, lengur!

**42.** Eydir linda sagdi sá, svoddan fjármegn høfum, mig þad hindra mun ei frá, mínum vina gjøfum.

**43.** Árstímann þar eptir hinn, eins er sagt á stædi, húsfreyan vid **Hákon** sinn, hjala spakt ad nædi.

44. Þannig skrafar skýr um hvólf, skilníngs tjóns með varnir, farist hafa fríðir 12, føðurs búgarðarnir.

45. Vel enn mætti, seint þó sé, saman auðis halda, eyðslu hætta ofmiklre, eikin — sagði — spjalda.

46. Svar til sinnur sólar hárs, sendir, auð þó hafni, við ógryuni eigum fjárs, í dýrgripa safni.

47. Oss mun síðar ydra það, offeint hagnað gérðum, eitt nær líður ár, hún kvað, alls félaus; þá verðum.

48. Talið feldu trú hjónen — tæpt ei mønnum skenkti, rausn fram heldur Hákon enn, hann um skort ei þenkti.

49. Svona undu sitt við bú, sømu þó með neytslu, liðu stundir nockrar nú, að nærstu Páska veitslu.

50. Sveigir branda svo nam tjá, sínu kjæra sprundi, að hann vanda veitslu þá, venju framar mundi.

51. Hølda grúi heimbrunar, hesta reynast láta, strax til búið veitslu var, veglegrar í máta.

52. Lundar boðnir lófa snjás, lipurt setrir váru, á gull roðnum kérum krás, kappar nettir báru.

53. Byrdar húngri vørdust þar, vilkjør túngur nefna, drukkið, súngið, dansað var, drógst að púngi svefna.

54. Endað fékk svo veitslu-val, værðir líðir þáðu, í lokrekkju sínum sal, sofna hjónin gáðu.

55. Svefni brá úr hlíð draums hann, hlýddi valin kona, þegar Hákon vakna vann, við hana talar svona.

56. Tvinna rósin hugar hrein, hlýðni vegna þinnar, makleg hrósi ertú ein, elsku verdug minnar.

57. Minstu þræðir metorðin, margt þó betur sjáir, mitt einræði muna þinn, mæða veit eg náir.

58. Það og ángrar annað þig, allteins vini mína, héðan lángar mikið mig, þó missi návist þína!

59. Strax í nótt af stað eg fer, stýfður beggum grana, leynist brótt af landi hér, líðum frá einmana.

60. Allt mitt ráð af hendi hér, hlírnis láða vørði, veitir dáða mildur mér, mæla tjáður gjørði.

61. Bauga sunnu bið eg leynt, bráðri leit við sporni, lokhvílunni ljúktu seint, ljósum — upp að — morgni.

62. Mín í tryggdum bíd þú best, blossa vídis tróða, sín í bygdum fram haldest, flest til hlýdi góða.

63. Trúlundud en géds óglødd, (gjæfan fylgdi halnum) tár blønduðum kossi kvødd, kappinn géck af salnum.

64. Fram til grundar snotur snýr, snar í spori sínu, þar til kundur derlings dýr, dreysdi skarti sínu.

65. Hvíldir þádi þegar hann, þenkt mun hafa' á bæinn, felast gádi mæddur mann, mestallann um daginn.

66. Þyggja náða tíd og tóm, temprun gjæda búna, fryggja láda fofnis, hljóm, fell' eg kvæda núna.

---

## Onnur Ríma.

(Stafhendt Studlafall).

1. Sunnu flæda Sól fyrer, semja kvædi skyldt er mér, óbýrt sést í annad sinn, æ! því brestur hárs=dryckinn.

2. Seint mér geingur søguna' á, síst því leingur dossa má, ríkt án bidar rennur sól, rétt er lidid undir Jól.

3. Dregst ad skuggi skammdegis, skal þó hugg-

un verda hreſs, eptir Jólin augum manns, unn'ir Sólin bjartleikans.

4. Þørf er lidum, veiki ver, vetrar tídin kulſøm hér, fleſtar mentir má og ſjá, mønnum léntar verda þá.

5. Misjøfn þó er mentin greidt, mynnis frjóa landi veitt, einn þá vitur ord til kaus, annar flytur galid raus.

6. Elda dýa eydir hér, einn kann tíu ſtíls hander, annar féck þó eingann ſtaf, um ad þeckja penna traf.

7. Einum ſkeikar ordmentin, yrkja leikur ſér ad hinn, rímur, kvædi, ſálma, ſá, ſem ad gjøra ſnild er á.

8. Einn kann frídann ecki' í mynd, einn ad ſmída hrífutind, annar ſemur figur verk, ſvoddan fremur ydnin ſterk.

9. Gjæfu' ei madur géfur ſér, gétur ſtadid eins á hér, hverjum manni' er meiri ſá, mismun þann er gjørir á.

10. Manſaungs dvíni málid ſlétt, mønnum ſýni varla rétt, Studlafallid ſtafhendt hér, ſtrax ad kallar ſagan mér.

---

## 11. Mitt þar ádan fjølnis far,

feſti ládid vid þagnar, ſviptur hnjód á heida ſtig, Hákon módur faldi ſig.

12. Hérnæst þad eg herma vinn, heim í stad um morguninn, géstir fródir hugd' í hug, hjónum bjóda gódann dag.

13. Snemma ecki þókti þar, þeim lokreckju Hákonar, upplokid vid árdags fund, af því bidu nockra stund.

14. Rædu mynda þegnar því, þessu hindrun valdi ný, týrar spánga tilgátu, tók af lángri náttsetu.

15. Gengu kappar þángad þá, þegar klappa dyr uppá, spyr húsfreya um hvad er? aptur segja géstirner.

16. Mál er klædast manni þín! mælti flædar glossa lín; minn jeg þreigi vopna ver, veit jeg eigi hvar hann er.

17. Lýdum fögnud lítt bjó þad, leit var mögnud Hákon' ad, hús um torgar, hóla, gil; hátíd sorgar snérist til.

18. Til Hákonar hvarfla má, Hárekssonar ljóda skrá, austur géck til enda lands, engi rekka sjer til hans.

19. Vedrin þæg um þetta skeid, þokur nægar fékk á leid, þar med huldist þekkur hann, þjádi' ei kuldinn ferdamann.

20. Á höfda einum fram vid flód, fleigir teina unda stód, þar var bjart og þokulaust; þvita hart um frónid traust.

21. Sá að löndum sveima þar, siglu þönduft voðirnar, öldu dýrið ákaflegt, álmatýr, en fær ei þekkt.

22. Lagdist þar á lægið inn, leið grunns snarast atkérin, Hákon mælir hölda við, happasælir komi þið!

23. Flutníng kjósa fer jeg nú, fü á sjós af óma frú, flytja drengir sley á hann, fyrir gengur Skipherrann.

24. Gyrðir heita sagðist sá, sver að beita unda ljá, klifja grana grér hraður, gylfa Dana hyrðmaður.

25. Kóngsins vörur seldi sá, sínum kjörum greindi frá, horfinn slísum humra lóns, heimleiðis til Danafróns.

26. Gyrðir spur að heiti hann, Hárek's burinn ansa vann: Vigfús nefna máttu mig, maður efnalaus bið þig!

27. Vertu spar ei við mig hér, veittu far og kostinn mér, flóðs á hana fögrum þín; fyrir Dana Kóngs augsýn.

28. Er Sveinn góður ödlíng mjög, elskar þjóð og kristin lög, gjæfu blóma géfst mér stund, gét' eg komist hans á fund.

29. Þetta báðum þóknast vann, þessu jáði Skipherrann, efnilegur því að þar, þótti Vigfús tilsýndar.

30. Beinar laga ferdir fá, fleinar dragast grunni frá, bøndin gnodar þéttu þar, þønd' upp vodir mjallhvítar.

31. Hvein í blæjum hýrt, ókørg, hrein sílægju dóttir mørg, nøldra, ymja, ørfast skrið, øldur glymja bordin við.

32. Svona jafna sigling há, Sjólands hafnir rétt uppá, grundar svana glosši bar, gramur Dana staddur þar.

33. Gyrdir stigur lands á leir, líka Vígfús, bádir þeir, gengu hvatir grædisstord, gylfi sat vid drykkju bord.

34. Kvedjur magna kappar þeir, Kóngur fagnar Gyrdi meir, spyr ad fréttum ferdalags, fylkir þetta greinir strax:

35. Hver er úngur álma týr, ei bragdþúngur sýnist hír, vitur hjá þér væntir mig? Vigfús þá hann nefndi sig.

36. Afsjár bid eg ydur nú, Ulfs þá nidur mælti þú! hvada lystir hefir hér, hjá ef gista viltu mér?

37. Eg kann ei þjóna Konúngi, kvistur lóna báls sagdi, enn mig gruna gjørla má, gjæfu mun hjá ydur fá.

38. Þess vandara þá er mér, þengill svara mildur fer, orma láda týrar tveir, talid brádum feldu þeir.

39. Litlu sídar lætur snar, lísta frídann járnsmid þar, til sín kalla túna þann, tyggi spjallar svo vid hann.

40. Ungur madur einn er hér, athugadu rétt sem ber, járnsmíd honum kéndu kjær, Kóngur svona talad fær.

41. Gildar tel jeg gáfur hans, gjørdu vel til þessa manns, játar smidur jøfri því, járnsmíd vid þeir setjast ný.

42. Ára lánud af því vex, eptir mána lidna sex, meistaranum meiri var, mørk í Dana flestum þar.

43. Gékk járnsmidur grams í rann, grein' eg ydur sagdi hann, þessum gét eg þegi ként, því hann betur kann þá ment.

44. Kóngur þakkar kénslu þeim, kvistinn stakka bodar heim, þann er silfur samdi smíd, sagdi gylfi þér jeg bíd:

45. Linna túna lystá bald; legdu núna þitt á vald, handverks njóti hjá þér frí, hyrdir klóta játar því.

46. Lærdóms skýmu allvel ann, eptir tíma jafnlángann, meistarinn ad mektum stór, med sveininn til Kónungs fór.

47. Meira kénna kvadst hann ei, kessu spennir týrs á mey, þakkar Sjóli þeim í vil, þridja skóla valdi til.

48. Vísir þángað Vigfús lét, veikir stánga tók í met, lærði smíða ljós fíngra, letri prýða' og steinsetja.

49. Tals þá voru tæpt liðnir, tvennir fjórir mánuðir, fyrir hara gengu greidt, gull-meistarinn tal fær þreytt.

50. Hrugnis messu hýra ment, hef jeg þessum manni ként, auðnæmari aldrei má, eg lund bara glæsis sjá.

51. Pakkar orðin þengill mild, þundi korða bjó af snild, til steinsmiðis Vigfús var, af vísir síðan látinn þar.

52. Til gat sniðið lím við lagt, líka nið-ur sett með prakt, eptir steinmeistara lyst, álma reyni það lærdist.

53. Að liðnu ári einu var', eydir tára mardallar, hálærður til Hilmis fór, Há-reks burinn menta stór.

54. Lærisveinn ei lengur hét, lyndis hreinn þá komst í met, bagga grana bør frækinn, best við Dana Kongínginn.

55. Tók að prýða hellstu hann, hnossa smíði Kóngs í rann, ríki Hara heiðurs til, honum bara gékk í vil.

56. Gengur svona eitt um ár, enginn honum smíðar skár, faðir hauðurs fögur orð, frægum og linna stord.

57. Enga leigu á jeg hjá, ýdur! veigatýr kvad þá: alda nærir audgum hér, elsku tæra skýldt er mér.

58. Nokkud skal eg þyggja þó, þanninn tal af speki bjó, mér heilrædi Lofdúng ljá! lundur klæda svo nam tjá.

59. Undrast Sjóli yfir því, orma bóla njótur frí, vilji kjósa heilrád hann, heldur enn ljós úr gédbu rann.

60. Hver hefir sagt þér Sikling kvad: sé mér lagt í skilníng þad, forspár vera' og fyrir sjá, forløg hver sem reyna má.

61. Sjálfs míns grunur segir mér, sagdi funa straumа grér, þanninn rád mitt þá verdur, þengill tjádi spakvitur.

62. Trúdu aldrei lausa lund, lágum hald þad hverja stund, Raudskéggjadur ef hann er, óhætt madur hlýd þú mér.

63. Hæverskligur heilræden, Hilmi Vígfús þakkar senn, fram héldt smídi eitt um ár, artug prýdir gésnar tár.

64. Lofa allir handverk hans, høldar snjallir innanlands, býdur Hari honum enn, hrugnis svar og skildínginn.

65. Heilrád kjósa helst eg kann, Hárekś glósa nidur vann, døglíng undrast enn á ný, innan stundar mælti því.

66. Pínir líkar þórs á frú, þegi slíkum klæðast nú,. enn heilræði eg þér býð, áttu þræða lífs um tíð.

67. Kyrkju þú ef kémur að, kreika nú ei fyrr' af stað, enn að messu hafir hlýdt, heilráð þessi geym þú blídt.

68. Láttu annir engar þín, einføld banna ráðin mín! þakkir Sjóla blíðum bar, báleigs sólar geymir snar.

69. Byggði Sveini Hara høll,,hún af steini gjør var øll, í því landi enginn má, annað handverk fegra sjá.

70. Pád útborið þegnar fá, þeir um vorið finnast gá, Kóngur þakkar honum hlítt, hans óskakka starfið nýtt.

71. Segðu mér hvað kjósa kannt, kaup skal þér ei veita grant! lýst er kvæði leikmaður, legg heilræði Konúngur.

72. Undarlegur ertú mann, øðlíng Vigfús gégna vann, frábær vitur fyrst þú ert, sæ jeg lit á þessu gért.

73. Ef þig bugar bræði sterk, brádt víghuga still þú verk, þenktu! Drottinn þetta sjer, þeim um gott eg skyldur er.

74. Hér með les þú helga bæn, hún skal flestum reynast væn, Pater noster prísvar þá, þessum kostum vík ei frá.

75. Veit eg Drottinn líkn þá ljær, lest-
ur gott þér ablad fær, þakkar madur Norsk-
ur nú, Nislúng þad af allri trú.

76. Flóda glóda lýttu laut, lódins móda
staupa þraut, módir audar byrgir blad,
bródir dauda sígur ad.

## Þridja Ríma.

(Samhendt Studlaljód).

1. Mundar ljóma mørk lengir, mínum
óma lund epter, land um góma lystugt hér,
lifni' hljómur kvæda mér.

2. Margir stundum æsku á, yggs er fundu
staupa lá, gamlann lundi gløddu þá, geira þund
og menja gná.

3. Fèll til sinnis svoddan mér, seint þó vinn-
ist efna hér, jardar linna jurt fyrer, jafna' og
tvinna máls greiner.

4. Kvæda rómur meinlaus má, mædu dróma
greida frá, ófka' eg hljómi' einn mér sá, aldur-
dóm ef reyni þá.

5. Æskan hradar yndæl sér, ad því mad-
ur gæti hver, þad einn gladann þá gjører, þrátt
aldradann mann græter.

6. Føgur árin frumvaxtar, frí vid tára stund-

irnar, sýsjar hárum sæmri hvar, sannast kláru vitgeyslar.

7. Mismun róma mikinn á, merkur blóm á vori sjá, frí af grómi græn og blá, gul, hvít, ljóma, dansa þá.

8. Við að staldra varð ei rótt, vænra aldur leiði brótt, sömu aldin sölna fljótt, er seig að kaldri vetrar nótt.

9. Er og þannig únga manns, æfi, sannur gleði dans, frí við annir fjárablans, fram til rann á aldur hans.

10. Fót : veg = hæltum framsýnar, feril töltir mannraunar, leika á hjöltum lukkunnar, líffins völtu stundirnar.

11. Hvörsu öld er fögur fljótt, frábær töld með æsku þrótt, ódum köld þó að ber skjótt, æfi kvöld og dauðans nótt.

12. Hels nótt svartri færðir frá, fylsni hjarta trú ber þá, morgun bjarta munum sjá, mesta skart og prýði fá.

13. Svíni hljóðin mansaungs mín, mín ei ljóðin skarta fín, rínar bjóðist logalín, línur óðar færstum sýn.

---

14. Lok mér kvæða létu þar, laus við gjæði málsnildar, sem heilræði Vigfús var, veitt, hann ræðir þakkirnar.

15. Hvad skal géra? hann þá kvad: Herra mér nú greinid þad, vísir tér sem vin um bad, vid spázerum ýlgs á hlad.

16. Gengu sídan græn sem var, grundin fríduſt áſýndar, fram til vídis frækna bar, flaut þar skídi brim-jardar.

17. Segla grúa ſveipud var, ſól hafs nú og letrud þar, unnid trúaſt ølduſar, Englands búid til ferdar.

18. Lund vid gráta géſnar þann, greidt í máta frábærann, Ødlíng kátur ord til fann, eigdu bátinn lyſta mann!

19. Vænt' eg Englands víſt af trú, viljir þengil finna þú, þægt ef fengir þyggja bú, þar hjá meingi' í vetur nú.

20. Abla von er ágæt þar, eldaſt Konúngs hallirnar, gjør og honum gérſemar, gylſi ſvona mál frambar.

21. Hegtær fínum flædar eym, fremſt er ſýniſt hæfa beim, ſkjótt til mín þá ſkalt um geym, ſkipmenn þína ſénda heim.

22. Skort ei finnur þegna þar, þá ef ſinnis til hvarflar, villt þér kynna veg ſæfar, og vitja þinnar ættjardar.

23. Þøkk til reidir ſunnu ſjós, ſendir greidur týs á drós, út ſkal breida ydar hrós, undir heidar blán rós.

24. Orlof blídast fékk á far, fágud prýdi gullegrar, af kjærleik frídum Kóngur snar, kysti sídan Vígfús þar.

25. Skaut upp dróu skatnar há, skablar róa grunni frá, hrønnin gó, og gnúdi þá, glyggur hló og blés í rá.

26. Birinn jafn á bordum var, børn og drafnar audsveip þar, uns til hafnar Englands bar, øldu hrafninn Vígfúsar.

27. Uppá frónid fyrdar stá, festu ljónid mastra þá, hesti lóna litlum á, leid heim þjónar sømu gá.

28. Gétzid sækja gnodar vann, geymir mækja tíma þann, mildíngs rækja rádin kann, roda lækja nógann fann.

29. Englands Sjóli frétti frá, freyr dans sólar komu þá, vitsku bólum varinn há, vald og tóla kynni sá.

30. Bodar manninn handverks heim, hann sér annar gégna þeim, fylkir þanninn fjádur seim, fagna vann af alúd beim.

31. Viltu smída vísir tér: vanur prýdi, til því er, høll ófrid af fyrnsku hér, fremst hvad hlýdir géld jeg þér!

32. Lofa kann þeim lyst á ný, loga hrannar geymir frí, tíminn grannur gjørdist því, gékk til þannig Kóngs vid bý.

**33.** Til fékk hari, þad var þarft!!! þund og skara mundar snart, hagleiks bar sá einn- ig art, Enskur var og kunni margt.

**34.** Sinn helmínginn hallar þér, hrærid fíngur vid sem ber, gylfa slíngan gruna fer, grér hver hrínga meiri er.

**35.** Tólf starfsveina Enskur á, abl vid steina brúka fá, Vigfús eina 7 fékk sjá, sín ad reyna störf, ósmá.

**36.** Enskum stritid um fram þar, ødl- íng nytsamt tilskipar, geymir vitur vopna snar, velur þvíta byggíngar.

**37.** Lídur smídid øblugt á, ýdil prýdi medur þá, Kóngur sídan kom ad sjá, kunnst- ir frídar smidum hjá.

**38.** Mann útlendur meiri var, med þó hend- ur færri þar, sleina sendir slýti rar, feg- urd kenda verkid bar.

**39.** Ágjætt var þad allt til bjó, undrar Hara stilníngs mó, Enskann þar sem yfir dró, er meistari kallast þó.

**40.** Kvøld eitt þadan heimti hann, hon- um ad og gégna kann, ávítadi Ødlíng þann, Enska stadar meistarann.

**41.** Einn og sérhver innanlands, æru þér ei veitir krans, Danskur hér er brjótur brands, betra gérist smídid hans.'

42. Von er flýi frá mér enn, frægðin hlý og starfsprýðen, hryggur því eg hermi senn, Herra! ný ótíðinden.

43. Þér ei áður þekktud hvað, þessi ráða smiður að, hefst á láði hér í stað, hvar til þjáður andgéf það.

44. Vopna rjóður vondt sá ber, verkahróðurs leitar sér, enginn góður álmagrér, í hans slóðir feti hér.

45. Kvöld um, smíðið mínir menn, mældu fríð við starfsloken, að morgni síðan múrveggenn, meta lýðir hærri senn.

46. Hver vill báða halurinn, hans við ráðin keppa stinn? er að gáði ótækt finn, Enski tjáði meistarinn.

47. Milding greina mildur fer, mun það reynast ósatt hér, mína sveina sækja ber, sagði fleina brjótur þver.

48. Við ei beið þá viljande, vitnin greiður sækjande, budu eydinn sönn að sé, sök er leidur framtalde.

49. Lofdúng klæða lund fyrer, laga skjæður opna fer, sváru bræður samvalder; sá fordæðu madur er.

50. Eptir strånga eydinn þann, út svo gánga menn þaðan, ödlíng þángað inní rann, einn tók ránga meistarann.

51. Ræða snar og fylkir fer, Fúsa þar um smíðaner, góðþekkar ei greinir sér, galdr- aðar hans athafner.

52. Ráðin greið mér þú af þægð, þú til neyðist gleyma vægð, lísi sneiða fé og frægð, fyrir leiða galdra slægð.

53. Ámælið eg óttast kann, ef að smið- inn deyði þann. Danmørk við sá frægðir fann, fjár megnið þar græddi hann.

54. Alma viður Enskur tér: eg kann sniðugt ráð til hér, glófan yðar afhend mér, eg hann smiði Dønskum ber.

55. Og með glófun yður frá, um hans hrófsun smíða þá, jarteikn ljósa sanna sjá, sendir ósa byrtu má.

56. Umsjón bjóðið alla því, ørfa rjóði verkfíns frí, líka þjóðar ønnum í, óms við fljóðar neggin hlý.

57. Fyrir sól á morgun má, meiðir tóla benja sá, vakurt róla vøllinn á, vopna njóla størf um sjá.

58. Hef eg áður um það sjeð, allt og dáðum farið með, þessi ráðin tæp fær tjeð, tyggja sjáður grey=menneð.

59. Bauga grenni brátt nær jeg, boðin kémi trúanleg, fram þá renni fljótt á veg, að finna menn við størf ótreg.

**60.** Komu þángað hans eg hljótt, hlinum spánga greini skjótt, þegar fángar nýtur nótt, niðji lángur derlíngs fljótt.

**61.** Vilja ydar þægum þá, þegi niður tíua má, svo án biðar báli á, brenni smiður galdra sá.

**62.** Í hvers mind sem apast kann, undir kindi þrælar hann, þetta lynda lofdúng vann, liðdan syndug gékk þaðann.

**63.** Boðskap með og glófann greidt, gékk á bed til smids óþreytt, döglíngs kvedju Dönskum veitt, dólinn tjedi mál óbreytt.

**64.** Fékk sér hest og fór þaðann, fleina lestir bráð-vakrann, reið þá mest er mátti hann, mæddi hresta skeifberann.

**65.** Verkþrælana finna fór, fljótt að ganar mæddum jór, Dönskum bana branda þór, bauð að vana dygða fljór.

**66.** Hans að vona morgni má, mindið honum bálið þá, eptir konúngs óskum já, Enskur svona gjörði tjá.

**67.** Hvers líkíng sem hafa kann, hratt á þvíngið eld gladann, því fjölkíngi hefur hann; happa ríngur gékk þaðann.

**68.** Ljóða móðu fróð sjá fljóð, flóði' ei móðan Odins góð, hljóði móðir! bjóð þekk, bjóð, blóðjárns, móðum óðs á flóð.

## Fjórda Ríma.

(Hrínghenda).

1. Litt þó álist ljóðin nú, léttir kala síuum, øgurs sala byrtu brú, báleiks vali mínum.

2. Gyrnast fljóðin gjøra flest, gauta móðu staupa, ordin góð og atlot flest, ad þeim ljóðin kaupa.

3. Kyrtla nó ad kjæta hér, kvæda þróast letur, veit jeg þó ei þackar mér, þamb af ódreirs tetur.

4. Bauga lundar betra hér, bodnar sund er þádu, síst øsunda sómir mér, sinnis grundar sjádu.

5. Af øsund vandi einum kann, ótæljandi skordast, allir fjanda ættu þann, álfar branda fordast.

6. Øsund lýdum eykur vest, opt ad smídar kisi, rænir prýði mannords mest, máské tídum lísi.

7. Þann á dýngist, margopt má, manndád ríngast skøpud, meira þvíngar miskir sá, mjøll en fíngra tøpud.

8. Hægt þó lidum heita má, heims ad blída skýi, frómann tídum ørg leggst á, øsund stríd og lýgi.

9. Bráins landa børs um hvað, beri vandað næmi, eg veit standa uppá það, óteljandi dæmi.

10. Dæmið sjest er dróttum hjá, dapurt flest réð kanna, allra mestur manna sá, mátti best það sanna.

11. Lærdóm setta sjáum hér, sérhver prett frá vendi, dæmið þetta eitt því er, oss nú rétt við hendi.

12. Öfundin og falsið fær, frómum vinna baga, en Herra sinn um hálsinn slær, hér sem kynnir saga.

13. Mál er dvíni Mansöngs orð, metist sín ei ræða, bála rínar stødug storð, stansar lína kvæða!

14. Minn þar ádi austrakner, ei þó dáða kénni; heim um láð er flýtti fer, flærdar-ráða menni.

15. Víkja ljóð til Vigfúsar, værð lét góða dvína, gjørdist hljóður heldur þar, hyggju slóð um fína.

16. Heilráð fyrsta hara Sveins, huxa víst að reyna, geyma lýstir øll þau eins, yggur mistilteina.

17. Lét það hendir hjálma þá, hyggju lendi skoða, því rétt stendur það uppá, þennann sendiboða.

18. Sjer ótrandur þeguinn þar, því sambaud sá madur, lágur kaudinn limski var, líka Raudskéggjadur.

19. Heilráð fríðust hinn í stað, hlinur skída kjørinn, þó ofbýdur ødlíng það, ef ei hlýda gjørir.

20. Hafdi stránga hugrenníng, heitt vall ángurs brunnur, eptir lánga umþenkíng, uppstód spánga runnur.

21. Gésid hann tók gjarda dýr, glæst og vann það prýda, fram til manna hyggur hýr, hárs um svanna ríða.

22. Verk um sjá er stillir stakks, stæltur sá baud lundi, hleypti fráum fýli hnakks, foldin þá vid stundi.

23. Frónid rúdi rósum títt, reifdur skrúda miklum, mélin gnúdi føgur fríðt, frodu spúdi hniklum.

24. Árla morguns enn þá var, ýfdur sorg og vanda, sjer hann borgar þorp eitt þar, þá á torgi standa.

25. Hristir skálma heim brunar, hót ei tálmar þessu, fljótt gall málmur fyrir þar, fyrsta sálm í messu.

26. Þángad snéri skarpur skjótt, skeifna héra bradum, af baki fer vid múrinn mjótt, mann hlið sjer á tjadum.

27. Inngángs frestar ei um það, enn þó mest við stæði, sá hann prest á sínum stað, semja bestu fræði.

28. Lýta má eg líka þar, lundur sjáar skara, óskign. sá af elli var, orðum brá seinfara.

29. Vigfús þanninn þeinkja fer, þeim frá ranni lángar, messu banna seggir sér, sínar annir strángar.

30. Sporum friðu spentur má, sprett ei kvíða gildi. út frá ríða þorpk þá, þundur stíða vildi.

31. Hugsar beigir hjør á slóð, hlaupa veginn tradar, klukkna sleigið heyrdi hljóð, hinumegin stadar.

32. Messu tjádi mønnum senn, málmhljóð brádum slaknar, heillarádið annað enn, ødlíngs bada vaknar.

33. Gékk án dvalar þegninn þá, þar í salinn tíða, mundi halur minnast á, messu skal jeg bíða.

34. Blessun þar til boðast mér, bæta hvar með vildi, ødlíng var jeg áðan hér, óhlýdnari' enn skyldi.

35. Þánka hress, enn sviptur sút, síðsta vers við undi, leiddist messan yndæl, út, ørva þessum lundi.

**36.** Glens var inna lopts á leid, lidin svinn hátt þegar, ferda sinna røskur reid, runnur linna vegar.

**37.** Fuglinn hara hárs þángad, hvarslar snar ótryggur, sem meistarinn Enski ad, ei er parid hryggur.

**38.** Kort fékk blundad káudinn vel, kát var lund hrekkjanna, Danskur mundi meiga hel, morgunstund um kanna.

**39.** A fætur brýtst ei burda rír, bragna síst þó vekur, fyrst er lýsti dagur dýr, drøsul prístinn tekur.

**40.** Limsku herkinn hest á snýst, hins ad merkjum bana, fram til merkur fara býst, ad finna verk=þrælana.

**41.** Vildi feginn forvitinn, fleira-beygir tédur, tyggja segja tídindin, tárum eigi medur.

**42.** Galdra=nærir grályndur, gafst á færi nýtid, ad nú væri uppbrendur, á þó bæri lítid.

**43.** Ferdin þessum gjørdist greid, gjarn af hreśs ástædum, hvergi blessun hlaut á leid, hann í messu frædum.

**44.** Bjóst ei kanna bana þrótt, bid ef fann um stræti, frám til manna skéldi skjótt, skeif=berann med kjæti.

**45.** Lán vill þrjóta hryggist hjal, hnikars spjóta laka, runnar flóta hraustir hal, hart á móti taka.

**46.** Gneistum strjálud glódin vann, gést ópjálum haga; skérfinn fálu flárádann, fram ad báli draga.

**47.** Enskur brátt þá tjørgu týr, tók upp hátt ad veina; Vigfús átti hót med hlý!!! hels þar mátt ad reyna.

**48.** Hrópar galid hý af þrá, þúngt vid kva'ir stynur, eg er halur Enski sá, Ødlíngs talinn vinur.

**49.** Illa rækir æru hátt, ord til skrækir lægdu, fullur klækja þú ert þrátt, þundar mækja søgdu.

**50.** Vægd þér rínga veitum bert, verdug þvíngan skédur, sjónhverfíng þú gétur gért, galdra kíngi medur.

**51.** Eldinn glada fýsum fljótt, følskum ad í bragdi, eins og madurinn í nótt, Enski þad oss sagdi.

**52.** Vór þeim gledi vid þad kæn, verk þarft skéd og søgdu, eptir tjeda andláts bæn!!! elds á bed hann lægdu.

**53.** Daudann fann, en dróttum hér, dæmid vann á ríka, falskur brann þar geira grér, grøf bjó hann sér slíka.

54. Ræddu' um spánga hlinir hljótt, hans burtgáng af fróni, Vigfús þángað þegar skjótt, þeysti stánga ljóni.

55. Mælti hnáa hølda við, hirðir bráins túna: ydju smáir eru þið, um dag háan núna!

56. Dagsverk kénnist hollt það hér, háðunn, enn það veldur, Danskt illmenni í morgun vér, møttum brenna heldur.

57. Tali brá, en vaknar vel, vitsku þá um skérið, Vigfús sá sér heiptugt hel, hafði ásett verið.

58. Þess ei synjað þegnar fá, þó að dynji hnjóður, prettum skynjað fólans frá, fékk týr brynju hljóður.

59. Lofgjørð hljóma lét með sann, laginn sóma vinna, þeim er fróman frelsa kann, fals af grómi hinna.

60. Stillis líða størfum sá, strax þeim býður vinna, heim reið síðan hraustur þá, hann til smíða finna.

61. Stundir líða Vigfús var, verk að prýða fremur, skømmu síðar Skjøldúng þar, skoða smíðið kémur.

62. Enskra hlíðin auð var þá, eitt sem stýður þarfa, Danska smiði sjóli sá, sína við að starfa.

**63.** Skipan hara skadleg ný, flékkt nú var ad bragdi, undrun bar hann yfir því, enn ord til þar ei lagdi.

**64.** Vigfús rædir svona senn, síst því mæda blekti, betur hæda Ödlíng enn, ydur skjædann þekkti.

**65.** Vann ei sóma viljande, verkin frómu sikta, fals med rómi fortalde, fjørráds dóm álykta.

**66.** Umbun sann þá feldi sig, falskur brann á skógi, saklansann ad svíkja mig, sekur vann med rógi.

**67.** Dana-ríkis mildíng mér, minnid slíkann festir, mjøg ólíkir eru þér audnu slíkum hrestir.

**68.** Rædu brá, því síst var seinn, Sjóli frá trampadi, ydrast þá í huga hreinn, ad hel þeim ályktadi.

**69.** Skømmu sídar losdúng lands, leid til smída tredur, mælti fridur hírt til hans, hilmir blídu medur.

**70.** Víst þér gjalda verdkaup má, vitsku haldinn nógur, heljar kalda hlautstu spá, hiis er valdi rógur.

**71.** Vinur þýdi heyrdu hér! høllu prýd á ládi, múrvegg sídan umsteyp er, Enskur smída nádi.

72. Snigla tradar sneidir ort, snemma' á nadurs gledi, alsmídadi hlera hjort, hilmis þad féll gédi.

73. Eptir smídid endad þad, áttu lýdir kjæti, Hari býdur heim þángad, holdum víða' um stræti.

74. Skála ydan veitt í vil, var til snidinn réttur, Dønskum smidi þrukkid til, Døglíngs hlid vid settur.

75. Dádast prýdi allir ad, er eyddu vídi kéra, fagrast smídid þókti þad, þar hjá lídum vera.

77. Veitslan fór med vyrdíng af, vid ei stóra skada, tvo' hafsjóra hilmir gaf, húss-smid stór-klifjada.

77. Vigfús brádum bjó síg þá, blídu nádi Hara, ordlof þádi þægum hjá, þar af ládi fara.

78. Sveins-naut stóra kaupa kann, knør til, fór þá prýda, þessa fjóra hledur hann, hrannar jóra frída.

79. Gyltir vitar vedurs þá, vøktu þyt ómædinn, gulli ritud rárnar á, reivdi glitud klædin.

80. Ljóda módur hætti hér, hródur bjóda kvendi, hljóda gróda mørk frá mér, módu glóda sendi.

# Fimta Ríma.

(Stiklufneidt Ferstiklad)

1. Kvæda róm nú vekja vinn, vídis ljóma hlídi, læt eg hljóma sídsta sinn, svanur óma vaknar minn.

2. Gyrnast hér þó gjøri þekk, grundin hvera ljósa, brag hjá mér ei blídann fékk, báleigs kéra mjadar smekk.

3. Stillt ef kjætti stúlkurnar, stord mér bætti þánka, hreyst vid mætti Hákonar, hinsta þætti søgunnar.

4. Umsnýst ljóda erfide, allt í gódann søgnud, nær mér bjóda brosande, baugatródur þacklæte.

5. Hún um bidur heiti ber, herjans ydu staupa, Manna smidur málrúner, menja vidur sjái hver.

6. Esnid bragar valdi vel, væri' eg hagur ljóda, reiknast sagan róms af þjel, ritid fagurt báda tel.

7. Æfintýri trollum frá, tigna víra þundar, blóds þar mýrum blikar á, bølverks dýra sunnan gljá.

8. Bistir grenja berserker, bløskra menja vid-

um, hraustir þenja helvoder, af hølbum benja skér streymer.

9. Pessu ljóda lystugt frá, leit eg fróda þegna, hinir ódum heyrn til ljá, heita: gódar Rimur þá.

10. Hitt svo lofar hølda raust, þar hjørs er sofinn þytur, þad er ofur efnislaust! á því dosid hafa traust.

11. Til þó findi máské mann, margt vit yndislegra, hvers er gyrnd þad gjørir hann, glød hugmynd um þánka rann.

12. Gáfna stíngum grunar mig, góms af klíngi: reint, veit sá ríngan vitsku stig, vid kved: líng hér þreytti sig.

13. Rángt hann kénnir Rimna ord, ráng: færinn vid søgu, rángt á penna ritar stord, rángt uppspennir hyggju bord.

14. Eydir hrínga ansar hinn, óds á þíngi mildur, vidvaníngi vorkun finn, vers þó sýngi' ei fullkominn.

15. Illa farid segir sé, svoddan par heir nýdi, ockar þar í úngdæme, algjørd var ei skynseme.

16. Uppfrædíngu eins ei fá, allir hrínga runn:

ar, margur þvingast mentum frá, manu, peninginn vantar þá.

17. Hvad um ræda rekkar hér, rétt ástædur prófi, ása slædi minni mér, Mansaungs kvædi styttast fer.

---

18. Naut hlí-varar nýráds fley, Norskur þar sem kvaddi, Englands hara áima frey, audinn bar af hnikars mey.

19. Týr elds-lóna traust á sté, taunia ljónid geyma, lands frá tónum leggjande, Lúdu frón um strikade.

20. Glyggur veitti hjálp til hér, høldar neyttu byrjar, ránar greitt um reidgrundér, runnu sveittir jórarner.

21. Nádi øldin nálgast rík. Noregs vøldu hafnir, eitt um kvøld í Austurvík, ættjord tøld vid Hákons slík.

22. Inn á leyni løgdust vog, létu fleina síga, lítt handseinir seggir og, sundur reyna vinda tog.

23. Skipum frá, ei stór var stans, strax

með fáa sveina, réri Hákon hljótt til lands, hneri smáum vor í sands.

24. Af sels vöðum einsamann, á gékk söðul ljóna, beina trøð og heldur hann, heim að føðurs gømlum rann.

25. Bœinn' þegar sagður sá, svíðrir trega freyu, honum mjøg í brúnir brá, brátt stór=lega reiddist þá.

26. Umlitaðist allstaðar, illa það féll hon=um, bættur hvað nú víða var, og vel mak=aður bræðslu þar.

27. Bónda nýann hurar hjá, hann með fríu géði, sinni hlýu seima=ná, svona bý=inn rækti þá.

28. Leitar móður eptir enn, egta góðu kvendi, hvílu tróð um herbergen, hels þá bróðir svæfði menn.

29. Eitt sjá kann það úngur ljer, elda hrannar lundi, lokrekkjan í eyði er, áður hann þar tók náðer.

30. Eitt gékk þá í lopt hjá lýð, að lok=um þá frá dregnum, sína bráins bóla hlíð, hjarta sá um nætur tíð.

31. Sæng í blundar svanninn hvar, sér við undi gróða, bauga lundur líka þar, líndúk undir sama var.

32. Svaf í frúar faðmi sá, fegurð búinn mestu, bónda rúinn rétti þá!!! í rekkju trú jeg ofar lá.

33. Ásást þar hans allri gjørð, ungur var og friður, gull=hár bar á brúnajørð, blómlegari leit ei svørð.

34. Reiðin veiga rann á fljót, rann ó=deig við þetta, vildi feigann fleina brjót, faðmløg eiga kvaðst hjá snót.

35. Sverð að vana þrífur þar, þundur grana byrða, þegni' að bana, það til bar, þengils Dana ráð vaknar.

36. Dygð ólatur frá gékk frú, fýstist bata þyggja, las hann Pater noster nú, neitt þá fatar bænin sú.

37. Bæn þá endud vegleg var, vit ei kéndi meira, enn að hendi hjer í bar, hvílu stendur við drófar.

38. Mjøg lángt frá gékk maðurinn, mik=

id sá var reidur, annad þá og þridja sinn, þuldi fáu lífs ordin.

**39.** Enn þá búinn ad því var, er til snú-inn rekkju, hendi nú í brugdid bar, brjóst vid frúar Omaskar.

**40.** Hreif í nokkud hardsnúinn, haddar-lokk á sveini, hrædd kvad dokkin silkis svinn: sonur okkar Hákon minn!

**41.** Haukaslód úr hægri þá, herjans glód nam kasta, stýrir þjóda gløggt mín gá, greindi bjódur hjálma sá.

**42.** Kossa géldur Hákon hnár, hrann-ar elda bjørku, bædi feldu fagnadar tár, fadmløg héldu trygda klár.

**43.** Lísiug banda lofn vid beim, lofræd-andi Gudi, sem lifandi lénti þeim, lífs án vanda' ad sjást í heim.

**44.** Søfgum beinast gumna smid, er gaf ofs hreinann arfa, þenna svein eg þakti kvid, þegar seinast skildum vid.

**45.** Hefur árin 8ta mér, elsku klár hjá lifad, géfnar tára gildur ver, gamla Há-reks nafnid ber.

46. Hvert spyr annad hjóna' á ný, hluta þanninn margra, hrósar svanni hollur því, hjálp nágranna veittist frí.

47. Manndóm frægann margur hér, mann af hægu gédi, vinhót þægust veittu þér, velmakt næga gafst því mér.

48. Svar gaf frómur sverdsþyrinn: sól þegar ljómar haudur, farar blóma mun þá minn, meta sóma hugur þinn!

49. Kvaddi lipurt kurteysenn, kirtla nipra jordu, hljótt í svip og hradfærenn, hitti skip og sína menn.

50. Leysa gádu gumar þar, gélti brádum unnar, drógu upp fjádir dulurnar, dofra hádi stafadar.

51. Lýdum sólin ljóma gaf, lýsti bólin fjalla, lands þá hólum lágt á haf, litlir góht vindar af.

52. Brjósta gylltar gyllturnar, grædis stilltar runnu, rétt óviltar veg ránar, voru fylltar ágjætrar.

53. Sást til ødum siglingar, sæmri ljód

ei votta, øll stód þjódin innsveitar, artar góð við hafnirnar.

54. Gengu fleý á grunnings hlad, gulli sleigin víða, Kóngur, segja sumir þad: sigl= ir meýni þundar ad.

55. Ekru sídan ad geýsar, údar skída floti, undrast lýdur allur þar, ysir prýdi siglingar.

56. Høfn í nettu setja senn, seglum fletta nidur, brátt útréttu botn=fleinenn, briggjur settu lands til menn.

57. Nærst því hradir nenna' af mar, Norskir þad og sáu, Hákon ad er Hárek s þar, í hafnir gladur kominn var.

58. Vard þar fundur fagnads nýr, flest= ir lundi gløddust, við þá stund því vakti hýr, vina bundin tryggð órír.

59. Heim leidandi Hákon frá, høfrúngs landi breidu, sæti vandad frægum fá, fram= reidandi kræsing þá.

60. Vard alsettur veitslu kór, vottar þetta gledi, sídan rétt á bord og bjór, báru nett= ir vel svo fór.

**61.** Møttu Hákon hans og frú, hædsta þá í máta, setti bráins sala brú, son þeim hjá med gledi nú.

**62.** Enn þá bordum undir þar, allir Nordmenn sátu, hlíuum korda hermdi snar, Hákon vordnu fréttirnar.

**63.** Veitslan þraut ad von ósmá, vyrdar braut því hálda, sleina gautum frekt gaf þá, fofnis laut og handar snjá.

**64.** Frægd ei tína ferda kann, sleigir rínar elda, alla sína æfi hann, aud og krýnast sæmdum vann.

**65.** Hjónin dáda bædi best, bjuggu' í nádum þarna, aldri fjád og audnu mest, uns hel — þádu — blund trúhrest.

---

66. „Sagan frá mér fer ómyrdt, frægd um Hákons Norska, únglíngs hjáverk stutt og stirdt, stord baugs fái betur vyrdt.

67. Endti braginn bassa vid, Bjarnar dagimi undir, greppar. Þægʼ eg legdi lid, ljódin fægi dálítid.

68. Níu hundrud eptir enn, Islands fund Nordmanna, fimmtíu bundin sjø ár senn, seldi Þundar vín kjeren.

69. Løgur Þakinn laxa fjós, lemstrun akra, kjæti, harmur vakinn samt med sjós, sæti sprakad hlírnis ljós.

70. Hrund ef tvinna hér gyrnist, heitid finna ljósar, nokkrum kynnist náms um víst, nafnš minn er skírdi Krist.

71. Oldin dádug fróm sé fljótt, føld aldrda jøfri, tøld í sjádu trygdum rótt, tjøldud nád: um dag og nótt.

72. Dvínar mál ei mærdar klént, mín= um brjálast huga, gínars skála romm af= renn, rínar bála jørd fæ sendt."

